# Líkræda,

haldin vid

Jardarfør

Prestsins sáluga

# Þorsteins Sveinbjørnssonar,

í Saurbæar Kirkju á Hvalfjardarstrønd,

þann 5ta Janúarii 1815.

af

Þórdi Jónssyni,

Sóknarpresti samastadar.

Ásamt

## Æfisøgu Agripi

og

## Grafskrift,

af G. Þ.



Beitistødum, 1816.
Prentud, á kostnad Stúdents G. Þorsteinssonar,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

Þegar Davíd Konúngur fregnadi: ad Abner Hershøfdíngi hans væri fallinn frá lífi, fyri sv kafullt yfirfall Jóabs, þá hjeldt Konungurinn upphvatníngar rædu til fólksins, sem þjóna átti ad hans jardarfør, hvørri til nidurlags hann brúkadi þetta atqvædi: Þjer vitid, sagdi hann, ad í dag er fallinn einhvørr hinn mesti madur í Israel (2 Sam.3, 38.).

Þessi

Þeßi Davíðs orð hygg eg vel hlýði að heimfærð sèu uppá þann nafnkanna Æru- og Merkis-mann, sem innan þeßara náfjala liggur hjer framliðinn fyrir augum vorum; vil eg því, með færstu orðum, benda til sannfæringar um, að Hann, í mørgu tilliti, var einhvørr hinn mesti maður, og þar með hvetja þá eptirlifandi til, að nema Hanns dygða og mannkosta loflegu dæmi.

Hvað skyldi það einkum vera, mínir háttvyrdtu! sem hjá einum manni ætti að verða fundið, svo hann án hræsni og hjegóma hróß væri álitinn fyrir einhvørn hinn mesta mann? Hann hlyti hafa til að bera hreinskilna elsku til sannleikans, og laungun til að útbreiða hann og staðfesta með honum annara heillir og velgengni; því hvaða velgengni, eða friðað innvortis ástand getur gefist, án þeß sannleikur og rettlæti sè þar til grundvöllurinn? Sannleiks elskan er þeim ráðvanda kristna ómißanleg dygð, og án rettlætis fær engiñ ydjað þau verk, sem trúarbrøgðum Jesú megi verðug fiñast; í einu orði: Sannleikur og Rettlæti eru meðøl til að ávinna sèr nafnið: Mikilmenni. Sá er Sannleikann elskar, og hefir hann ætíð fyrir sinn ráðgjafa, eblir þar með 1.) Guðs vilja; því þeir einir eru honum þócknanlegir, sem leiða manneskjurnar til sannleiksins viðurkenningar, og prýða sínar athafnir með rettlætinu. Þar næst 2.) eblir sannleiks elskarinn sinna meðbræðra luckn, með því að leiða þá á sannleiksins veg, og kenna þeim að þeckja þans dýrmætu heillir, bæði í þeim andlegu og líkamlegu efnum; hann venur aðra eptir sèr, að forðast allt það, sem sannleikanum er gagnstæðt, en

hvetur

hvetur til ad breyta eptir besti samvitsku sannfæríngu; af þeßu flýtur fridad sálar ástand, og blid medvitund um nytsamt liferni, og þá segi eg, ad hvílíkur madur hafi verid sínum medbrædrum til mikilla heilla. 3.) Eblir hann sína egin farsæld; hann elskar sannleika og rettlæti; hann hefir því ætíd glada og góda samvitsku; hann reynir aldrei þau pínandi eptirkosi, sem ódygdirnar taka í heimgjald; hann mißir aldrei ró nje gledi nje ánægju; hann sýnir sig ætíd þann hann er: Gódann og mikinn mann.

Þarfleysa er fyri mig, ad sannfæra Ydur um þad, sem siálfum Ydur, og öllum þeim er þecktu þenna vorn Framlidna, er fullkunnugt, ad Hann væri sannleikans vinur og rettlætisins elskari; já, ad hér væri fallinn frá lífinu einhverr hinn mesti madur. Enginn mun geta neitad því, ad Prestiurinn sálugi, Þorsteinn Sveinbjarnarson, hafi verid mikill madur, bædi medan Hann þjónadi sem Prestur, og eins sídan. Í fyrra tilfellinu audnadist honum ad ná þeirri fullkomnunar troppu, sem færstir á Hans tíd fengu komist framyfir, hvorsvegna Sóknabörn Hans ennþá med elskufullri vyrdíngu minnast Hans uppfrædíngar, lærdóms og leidslu máta; en — var þeßi Merkismadur minni í sínu embættislausa lífi? Nei! hvad er þad, sem nærir kristinum verdugt sambúdarlag? O! sannarlega þad, sem minn framlidni æruverdi Medbródir átti og hafdi í stærri mælir, enn fleirstir á ockar öld, og þad var: Kjærleiki, Fridsemi, Hreinskilni og sannleiks elska, eda nær sáu menn Hann af ásetníngi breyta þeßu gagnstædt? aldrei! hvertámóti nidurþagg-
adi

adi Hann opt óviturleik heimskra manna, og hjálpadi undirkr ektum til rjettar, ad svo miklu leiti, er í Hans valdi stód, og styrkti ætíd til þess sem betur mátti fara.

Hef eg þá ecki, mínir hærstvyrdtu! í stuttu máli sannad, ad hjer se leiddur úr vorum sambúdum einhverr hinn besti og mesti Madur? Besti madur var Hann í því, ad gefa af sér góð og lofsverd dæmi uppá sannleiks elsku og rádvendni, en mesti madur í því, ad leida fáfróda svo til upplýsingar og sidbóta, ad þeir fengu á Honum elsku og vyrdingu fyrir Hans dugnad og náqvæmu vidburdi; Hann var og mesti madur í því, ad taka vel og skynsamlega á móti Guds rádstöfunum, og vera ánægdur med Forsjónarinnar úthlutanir, á hverju raunin vard skíruft nú í Hans sídustu banalegu, þared Hann afbar veikleikans, ellinnar og helsóttarinnar þjáningar med þeirri gjedværd og þolinmædi, sem sannkristnum sannleiksins elskara getur einum á daudastundunni verid eginleg. Hann átti vísa þá umbun, fyrir loflega brúkada lánga æfi, sem ladi Honum Guds vinanna rædutak munn: Daudinn er minn ábáti — Eg gyrnist ad leysast hjedan, og sameinast mínum Lausnara Jesú. Það er nú líka framkomid vid Þig, fullsæli Bródir! Þú ert hafinn yfir allann holdsins veikleika! Þín ódaudlega sála ljómar nú í þeirri dýrd hjá Gudi, er Þú svo lengi þrádir, farsællega hefir Þú skeidid hlaupid, Þína trú geymt, Þína áqvördun uppfyllt og kórónu dýrdarinnar úr býtum borid. Þjer samgledjumst vjer nú allir,

og

og einkum Þínir eptirlátnu Ástvinir, Þín samdygð- ugg Ektaqvinna, Þín Dóttir og Þinn Sonur; já! sá Sonur, sem í lífsins ørdugu breytíngum var Þín gledi, Þín ellisiod og heimilis siytta, og sem nú gengsi fyrir ad tigna Þína minníngu med heidurlegri og Merkismanni verdugri jardarfør.

Þannig ertú þá, minn framlidni æruverdi Med- bródir! eptir nytsama dvøl á hnetti þeßum, á Þínu 85ta ári, leiddur inn í Þíns Herra fognud, hvar Þinn ódaudlegi andi lofar Gud án afláts fyrir sína frelsun. Nú uppskjer Þú og hjetanaf ávøxt Þinna nytsomu ydna, Þinna sanndygdugu athafna, Þinn- ar trúmennsku og rádvendnis; en minníng Þinna miklu fullkomlegleika mun lengi í heidrnu lifa medal þeirra, er þecktu Þig rett, og unna dygd og rádvendni verdskuldadra sannmæla. Þú gafst oß med Þínu sannleik eg rettvísi prýdda framferdi eptirbreytnisverdasta dæmi. Þú kenndir oß ad elska og æfa sannleika, rettvísi og dygd, ad efla Guds vilja, velferd vorra brædra, og geyma ófleckada samvitsku fyrir Gudi og mønnum. O! þau mørgu gódu dæmi, sem Þú hefir oß leyft! o! ad vjer gætum fylgt Þínum manndygda sporum medan vjer dveljum hjer, þá gætum vjer líka ad lokunum eins rólegir og sigri hrósandi sem Þú, gengid inn á land enna lifendu, til ad samfagna og samgledjast þar med Þjer og øllum heiløgum, Amen!

  

Æfi-

# Æfisøgu Agrip.

Presturinn sálugi Þorsteinn Sveinbjarnarson fæddist í heim þenna á Suðurnesjum innan Gullbríngu-sýslu, þann 24da Júnii 1730, af góðu og velgáfuðu fólki í báðar ættir; uppfóstraðist síðan með Foður sínum, sem um þær mundir reisti bú í Innri-Nordvík, uns hann, sokum sérdeilislegra bóknáms gáfna, árið 1753, var inntekinn í opinberann Skóla, að tilhlutun móðurfrænda hans, þáverandi Biskups yfir Skálholts stipti, Hra. Olafs Gíslasonar, til að dýrka þar gáfur þær, er Guð hafði honum í miklum mælir miðlað, hvaðan hann með besta siðprýðis og lærdóms vitnisburði útskrifaðist 1756. Sem Stúdent varð hann fyrst handskrifari Sýslumanns í Arnes-sýslu Brynjólfs Sigurðssonar, en ári síðar tók hann skrifara þénustu hjá Landsfógeta S. Magnússyni í Viðey, og dvaldi þar til þess hann árið 1759 fór utan, til frekari lærdóms-auka við Kaupmannahafnar Háskóla, deponeraði sama árs haust, en tók Attestatz í Guðfræðinni með góðum vitnisburði, árið 1762, og fór á sama

ári

ári til ættjardar siñar, dvaldi hann enn ad nýu
hjá Landfógeta Skúla, þártil hann, árid 1765,
var kalladur til Prestsembættis ad Reykjavík;
og vígdur á Nýársdag 1766; en árid 1769
veittust honum Hvanneyrar og Bæar þíng í
Borgarfirdi, reysti hann bú á Prestssétrinu
Hesti, og bjó þar ógiptur, þartil hann, árid
1775, þann 4da Nóvemb. inngeck hjúskap med
hans enn lifandi gódfrægu Eckju Þorbjørgu
Hannesdóttur, abladi med henni 3gja sona og
rar dóttur. Arid 1798 gaf hann upp braud-
id, vegna aldurdóms og ørdugleika, vid tengda
náúnga sinn, þáverandi Conrektor vid Reykja-
víkur Látínuskóla, nú Sóknarprest ad Vatns-
firdi, Arnór Jónsson, þjónadi þó alltaf Bæar
sókn og bjó á Hesti, uns hann í Fardøgum,
1804, eptir 35 ára þarveru, flutti sig ad eign-
arjørd sinni Hlidarfæti í Svínadal, hvar hañ
bjó á 11ta ár, og deydi þar í rósamri elli, þañ
29da Dec. 1814, á 85ta aldurs ári. Hann
þjónadi Prestsembætti 38 ár, og lifdi í hjóna-
bandi á 40ta ár, var einhverr á sinni tíd, til
embættisverka, lidugasti Prestur, gódur kénnari
og mátti teljast í fyrsta flocki gódskálda, hvar
um ljósast vitna hans mørgu ljódmæli, hverra
meiri

meiri hluti ennþá er alþýdu ókunnur. Hann var jafnt lagin til bókmenta og búnadarvísi; sanngjarn og réttsýnn í öllum' vidskiptum; spakur í umgengni, og stjórnadi gedi sínu fleirstum betur; vinum sínum ætíd tryggur og ráddhollur, og einhverr, á vorri old, hreinlyndasti og ordvarasti madur.

## Graffkrift.

Hér. þyggur. þreyttur.
þráda hvíld.
ÞORSTEINN SVEINBJARNARSON.
Fæddur. þann. XXIV. Junii. MDCCXXX
Prestvígdur. þann I. Januarii. MDCCLXVI.
Giptur. þann. IV. Novembr. MDCCLXXV.
Hann vard. Fadir. ad. IV. Börnum. — og —
Deydi. þann. XXIX Decembr. MDCCCXIV.

| | |
|---|---|
| Hann. var. gáfum. | Gudsdyrkun. ebldi. |
| Af. Gudi. sæmdur. | Gudrækinn. Sjálfur. |
| Lögudum. vel. | Sann-nefndur var. Hann. |
| Til. lærdóms. ydna. | Sannleiks. elskari. |
| Fródur. í. mörgu. | Rádhollur. réttvís. |
| Frægur. kénnari. | Raunbetri. fleirstum. |
| Rádsvinnur. | Tryggur. og. ordvarr. |
| Og. reglufastur. | Túngu. geymdi. |

Vandad framferdi veri Hans,
Mannstur snjöllum mönnum öllum,
Sem feta leid til Födurlands.

